ná þeim inn í kristilegan félagsskap. Margir veigra sér við því, og þar með við, sem stundum sunnudagaskóla. Af því kristindómur á að vera frjáls, hikar maður við, að leyta eftir unglingum og reyna að laða þá til, að vera með í sunnudagaskóla. Þetta sýnist að vera skylda foreldra, sem ættu að hafa áhuga sjálf og jafnvel koma með börnunum og kynna sér starfið. Annars sýnist það nærri því skylda hvers leiðtoga, að bjóða velkomna og jafnvel herða að því, að hver og einn unglingur samlagist einhverri stefnu. Persónulega finnst mér, að það gjöri lítið til hvaða nafn kirkjuflokkurinn ber, ef grundvöllurinn er kristileg trú á þríeinan Guð. Aðal ástæðan er, að ná unglingunum inn í sunnudagaskóla og halda þeim við kristilegan félagsskap.

Hvernig á þá að fara að í dreifðum byggðum eða smá bæjum, að styðja eða koma á stað sunnudagaskóla starfinu? Góður vegur er, að fá skólakennarann í byggðinni, að hafa eina klukkustund í viku fyrir kristilega fræðslu. En þar sem kennarar koma og fara, er betra að leitast við, að fá einhverja góða manneskju í byggðinni, að vera leiðtogi. Á sunnudögum er auðvitað skémtilegast að stunda kristilega fræðslu, því þá er maður um leið að "halda hvíldardaginn heilagann", og gjöra hann hátíðlegri með því, að klæða börnin í spari fötin. Siður var það í gamla landinu—að við höfum heyrt—að hver og einn klæddist í hrein föt, eða kvenfólkið setti upp hreina svuntu og sat svo kyrt á meðan lesinn var húslesturinn. Því er nú ver, að sá fallegi siður er orðinn úreltur og þess vegna meiri þörf á byggða samvinnu. En sé erfitt að koma á kenslu á sunnudögum, er hægt að nota daglega skólann og svoleiðis kenslu veitti eg, með hjálp í nokkur ár, og börnin lærðu vel, að mér fannst.

Annar vegur—og þetta síðasta vor hefi eg séð góðan árangur—er, að komast í samband við sunnudagaskóla með bréfa viðskiftum, (Correspondence Sunday School). Börnin hafa komið með blöðin sin, sem þau fá og sýnt mér spurningar og svör, sem þau meðtaka og svara reglulega. Eitt vantar þó, og það er sálmasöngurinn, því söngur í skólum, eins og hvar sem fólk kemur saman, lyftir og lífgar hugann.

Öll þau ár, sem eg hefi kennt skóla, þá held eg að ekki hafi liðið margir dagar, að einn eða fleiri sálmar hafi verið sungnir við byrjun skólans. Og nú er engin ástæða, að kennarar lesi ekki Biblíu kafla, því menntamáladeildin hefir sett í hvern skóla bók með tilhlýðilegum biblíu köflum til lesturs, og ef kennarinn byrjar ekki á því, getur skólanefndin, ef einhver æskir þess, beðið um, að það sé gjört. Gott er þá hér að segja.

"Tak þú þig fram og grenzlast eftir því í þínu skólahéraði." Þeir biblíu kaflar, sem lesnir eru og þeir sálmar sem eru sungnir, munu aldrei verða til þess, að breyta neinni trúarstefnu, ef viss trúarstefna er aðal spursmálið. Fallegar sögur í Nýja testamentinu og í því gamla, festa rætur í hjarta barnanna, svo, að þegar það vitkast meira tekur það einhverja varanlega festu þó engin heimilsáhrif hafi komið í ljós. Eg tala nú ekki um, hvað það styður að heima tilsögninni og sunnudagaskóla, að bera það fram í stuttu máli, en þó reglulega í skólanum.

Stundum hefir verið sett út á, og það réttilega, að þeir , sem þykjast vera kristnir leiðtogar, séu hræsnarar, og það sé aðeins sunnudaga tilbeiðzla hjá þeim, og á hinum sex dögunum, allt önnur stefna. Þess vegna er það skylda kennara og leiðtoga, að sýna og sanna það nauðsynlega samband milli trúarinnar og annara kenninga, og þar með sýna, að Guð er meistari lífsins, en ekki lítill partur á vissum tímum. Kristileg kensla verður að vera víðtæk og tileinkuð daglegu lífi, tekið úr náttúrunni umhverfis, listum, bókmenntum o. s. frv. Við verðum að leggja áherzlu á nærveru Guðs í öllum hlutum, því, í byrjun var Guð. Ef allt umhverfi manns minnti mann á Krist, væri auðveldara að lifa eins og hann lifði. Með aðgætni og árvekni, verðum við því að leiðbeina unglingunum og hjálpa þeim að sjá hulinn Krist alls staðar umhverfis oss. "Allt er holt í þessari veröld," sagði bölsýnismaðurinn. "Já það er satt og Kristur er alltaf hulinn þar inni," sagði sá bjartsýni.

Segjum nú, að sunnudagaskóli sé stofnaður og kennarar fengnir, þá má ekki standa í stað. Að verða of vanafastur og strangur, að fylgja gömlum reglum eða siðum, er ekki áhrifa mikið í garð nemendanna. Ekki er heldur gott, að grípa á lofti einhverjar nýjar aðferðir og hugmyndir. Allur lærdómur er hægfara og sérstaklega er það satt í trúarlegri uppfræðzlu. Við verðum að ná áhuga barnsins með einföldum sögum, fallegum myndum, spurningum úr fyrri lexíum og byggja svo upp af því, sem þau hafa lært. Gott er að hlusta á þau, ef þeim hefir dottið eitthvað í hug—þó máske það eigi ekki við umtals efnið—og stundum er hægt að innlifa lexíuna í þeirra áhugamál.

Með eldri börn er gott að stóla upp á þeirra hjálp, finna í biblíunni, vissa kafla og bera þá saman við aðra sem kenna sama málefnið. Hægt er að gjöra þetta að leik án þess að óregla komi á börnin. Hér vil eg minnast líka, að nauðsynlegt er, að kynna þeim lærdóms kverið (catechism) frá tíu ára aldri, svo, að þegar líður að fermingu eru þau kunnug

öllu því, sem áherzla er lögð á fyrir það þýðingar mikla spor.

Þar sem að fáir kennarar eru, er aldursmunur barnanna að stríða við og má því fara lauslega yfir lexiuna og skifta svo börnunum þannig, að eldri börn, helzt fermd, lesi með yngri börnunum. Með þessu móti, þar sem enginn biblíu klassi er, verður hægt að halda unglingunum við sunnudagaskóla, með því að lofa þeim, að finna það, að hjálp þeirra sé nauðsynleg. "Að vera tönn í hjóli," hefir oft meiri áhrif til samvinnu—og þá lærdómur um leið—en of mikið fjas um, "Hvað þú skalt gjöra eða ekki gjöra." Einusinni var skáti spurður að "því honum hefði þótt svo mikið varið í ræðu sem hann hlustaði á." "Ó, presturinn nöldraði ekki," svaraði drengurinn. Of oft nöldrum við of mikið bæði á heimilum og í skólum.

Samt sem áður verður kenslan að vera þess virði, að hún hafi varanleg áhrif á hegðun barnsins. Að segja sögur með fögrum tilgangi, grípur hugann, og oft er gott að lofa börnunum að skylja þær án þess, að benda á hvað lærdómsrík hún er. Nauðsynlegt er fyrir kennarann, að vera vel undirbúinn með lexiurnar og biblíu kaflana, og ef blöð eru gefin, að þau finni, að þau hafi verið lesin. Það vekur áhuga hjá barninu, að lesa þau í staðinn fyrir að henda þeim þegar heim kemur, ef foreldrarnir hafa ekki hugsun á, að lesa þau með þeim. Sunnudagaskóla blöð eru líka góð til lesturs á daglega skólanum ef hugsun er höfð á því, að sameina lærdóminn.

Já, sunnudagaskóla starf er umfangsmikið starf og um okkur, sem leiðtoga má segja, að mörgum finnst sér það ofvaxið. En þó má ekki láta hugfallast, því mörg eru smá neistin sem falla frá góðri manneskju sem ber fyrir brjósti velferð heimsins og hefir einlægan áhuga fyrir starfinu. Að kenna, er að taka þátt í annara kjörum, að lifa með nemendunum þannig, að þarfir þeirra, áhugi þeirra og erfiðleikar skiljist og reynt sé að bæta þá. Það er oft sagt, að framferði unglinganna eigi að vera aðal markið leiðtoganna. Grundvallar framkoma kennaranna hefir varanlegt áhrif á bæði hann sjálfan og aðra. Framkoma hans í glaðværð, framtíðar von, hugrekki, trúmensku, lotning, alvörugefni o. f. l., er afar áríðandi og vinnst aðeins með stöðugri æfingu. Líkt þessum eru lundareinkenni einstaklinganna, að vera hjálpsamur, samvinnugefin, ósérhlífinn, hreinskilin og ábyggilegur.

Nemendur kennara nokkurs létu oft í ljósi hvað þeim þótti vænt um hana. "Hún er ekki aðeins góður kennari, hún miðlar okkur af sínu eig-

in lífi og hugsunum svo, að við erum miklu ríkari fyrir, að hafa haft samleið með henni." Að hafa samleið með öðrum, verður hver og einn að reyna að þekkja og virða lundareinkenni annara. Að geta sett sig í annara spor, hvort í gleði eða sorg, er afar nauðsynlegt. Jesús, hinn mesti og bezti kennari, gat gjört það. Hann hafði það guðlega eðli, að geta miðlað sinar hugsanir til þeirra sem hann elskaði.

"There are loyal hearts, there are spirits brave,
There are souls that are pure and true;
Then give to the world the best you have,
And the best will come back to you.

Give love, and love to your life will flow
A strength in your utmost need;
Have faith, and a score of hearts will show
Their faith in your word and deed.

Give truth, and your gift will be paid in kind,
And honor will honor meet;
And a smile that is sweet will surely find
A smile that is just as sweet.

For life is the mirror of king and slave,
'Tis just what we are and do
Then give to the world the best you have
And the best will come back to you."

Við skulum ekki gefast upp. Við skulum reyna að lifa í starfinu, og þó árangurinn sýnist oft lítill, ekki tapa kjarki, en standa stöðug í trúnni og beyta okkur fyrir kristilegri lífsstefnu.

"Because you have occasional spells of despondency, don't despair. The sun has a sinking spell every night, but it rises again allright next morning."

---

# Forest Lawn, Los Angeles.

Fyrir rúmu ári síðan átti eg því láni að fagna að ferðast til draumalandsins, Californíu. Þar sá eg margt sem heillaði andann og vakti aðdáun. Undursamleg tíð, engin vetur, aðeins nokkur rigninga tíð til að vökva og frjóvga jörðina.

Þegar eg kom til Los Angeles í febrúar var sól og sumar, allar rigningar búnar, og alt stóð í blóma; þegar ein tegund hætti að blómga tóku aðrar við, og heltu sér yfir girðingar og grænar grundir svo að hvar sem augað eygði voru blóm, skrautleg og dýrðleg.

Los Angeles er eins og perla við strendur hins volduga Kyrrahafs, umkringd af bláum fjöllum, og í hlíðunum raðir af alskyns litum húsum sem sýnast eins og dúkku hús í fjarlægðinni.

Á þeim fimm mánuðum sem eg dvaldi í Los Angeles gafst mér tækifæri að sjá töluvert af þessu draumalandi sem hefir að geyma svo marga söguríka staði frá því Spánverjar fyrst bygðu það. Santa Barbara Mission, Ventura—hin elzta af mörgum Kathólskum "Missions", Riverside Mission Inn, Huntington Art Gallery og Library, Knott's Berry Farm, og síðast en ekki sízt—Forest Lawn Memorial Park, og það er Forest Lawn sem mig lángar til að minnast stuttlega, því það gagntók huga minn og hjarta.

Forest Lawn var hugsjón nokkurra manna, og er þar skráð í steini játning bygginga meistarans: "The Builder's Creed", og í þeirri hugsjón var innifalin sú hugmynd að látinna ástvina legstaður ætti að vera huggunarríkur staður þar sem dauðinn yrði eins og Jakobína Johnson segir: "dagrenning ein".

Hugsjónin var því innifalin í því að safna saman á þennan stað alt sem var helgast og háleitast og sem hafði að geyma það fegursta og bezta í lífinu.

Alstaðar í þessum listigarði dauðans var fegurð og líf og eilíf von. Engir bauta steinar utan þeirra sem hvíla á hinni græna grundu og letrað var á nafn til minningar. Ein stór bygging er "mausoleum" þar sem jarðneskjar leifar hvíla í klefum með áletruða nafni, og blóma vösum. Alstaðar eru gosbrunnar og höggmyndir, stórar og smáar. Við hliðina á "Wee Kirk o' the Heather" er eftirliking af höggmynd Thorvaldsens

"The Christus" með boðinu "Komið til mín, Allir" o.s.fr. Hún stendur í garði þar sem gestum er boðið að hvíla sig og biðjast fyrir.

Í einni stór byggingunni er marmara gángur sem helgaður er börnunum, og bæði gluggar úr litgleri og mynda styttur úr marmara, takna sögur úr biblíunni sem túlka eilífa gæzku og von. Manni vöknar um auga er maður stendur á þessum helgastað.

Þrár undursamlega fagrar kirkjur eru í Forest Lawn. "Little Church of the Flowers", sem er mikið notuð fyrir giftingar, "Church of the Recessional" og "Wee Kirk o' the Heather". Allar eru þær smáar eftir líkingar of gömlum, söguríkum kirkjum á Englandi. Og alstaðar, hvar sem augað eygir eru marmarar–flestir af þeim túlkandi kærleika og fegurð lífsins.

Það væri of lángt mál að reyna að lýsa allri þessari dýrð, þessvegna verður að nægja í þetta sinn að lýsa hinum fagra litmynda glugga sem nefnist "The Last Supper" og er eftirlíking af hinu fræga málverki Leonardo da Vinci, þessi gluggi sem tekur upp eina hlið af stórum sal í einni stór byggingu í Forest Lawn, er gerður í litgleri (stained glass) og er eftir Ítalska konu, Rosa Caselli Moretti, sem er ein eftir af fjölskyldu er í marga mannsaldra hefir stundað þessa iðn.

Það var árið 1924 að Dr. Hubert Eaton, sem er forseti nefndar þeirrar sem stjórnar Forest Lawn, var á ferð í Ítalíu og var að skoða glugga sem nefndur er "Rose Window" og er í St. Francis of Assisi kirkjunni. Múnkur sem var að sýna þeim kirkjuna sagði þeim að glugginn hefði verið gerður á tólftu öldinni af Moretti fjölskyldunni sem ætti heima í Perugía, og stundaði enn í dag þessa iðn, þó nú væri eftir aðeins ung stúlka sem nýlega hefði endurnýjað nokkuð af þessum glugga.

Þaðan fór Dr. Eaton svo til Milan til að skoða málverk Leonardo da Vinci "Hin síðasta kvöldmáltíð" sem hann málaði á plastur vegg í einni kirkjunni þar, og, eftir því sem tímar liðu, var að smá eyðileggjast. Reyndar hafði málverkið verið endurbætt af ýmsum málurum gegnum aldirnar en myndin var auðsjáanlega að tapa sinni fyrri fegurð.

Þá datt Dr. Eaton í hug sagan sem múnkurin í Assisi hafði sagt honum um stúlku sem ynni í litgleri. Þá kom í huga hans sú hugsjón að biðja Miss Moretti að endurskapa í litgleri myndina "Hin síðasta kvöldmáltíð"–fyrir Forest Lawn. Hann ferðaðist því til Perugía og gekk á fund Rosu Moretti og bað túlkinn að spyrja hana hvert hún gæti búið til fyrir Forest Lawn "Hina síðustu kvöldmáltíð" í litgleri. Það var eins

og ásjóna hennar yrði uppljómuð af dýrðlegri gleði. "Eg myndi leggja all sálu mína í það verk" sagði hún. "Hvað lengi myndi það taka" spurði Ameríski maðurinn. "Að minsta kosti sex ár. Eg ætla ekki að nota málverkið í Milan til fyrir myndar," sagði Miss Moretti, "eg ætla að leita uppi hinar upprunalegu teikningar da Vinci, sem geymdar eru í ýmsum minja söfnum, og nota þær."

Tímar liðu og eftir meir enn sex ár fékk hann orð frá Miss Moretti að Judas hefði fimm sinnum brotnað í ofninum. "Máske Guð sé þessu verki mótfallin. Eg hefi beðið heitt—eg skal reyna enn einu sinni. Ef Judas brotnar aftur mun eg ekki ljúka við 'Hina síðustu kvöldmáltíð'."

Dr. Eaton og fulltrúar Forest Lawn stóðu á öndinnu að bíða eftir skeyti frá Ítalíu, og loks kom orðsending að glugginn væri fullkominn. Svo ferðuðust þeir til Perugía til að vera viðstaddir við sýningu þessa meistara verks. Það voru sjö ár liðin síðan verkið var hafið, en nú var konungurin og allir mestu menn þjóðarinnar þar viðstaddir til að heiðra Rosu Moretti og sýna lotning hennar mikilfenglega verki.

Máske það sé tákn tímanna að þetta mikla verk var svo flutt út úr landinu og gefið í hendur, hinni volduga Bandaríkja þjóð og Forest Lawn, til varðveizlu. Þegar sýning gluggans fer fram er dyrum lokað, en myndin er útskýrð af manni sem er til hliðar. Það er dimmt í salnum og manni finnst ósjálfrátt maður vera í kirkju. Litirnir í myndinni eru guðdómlegir, postularnir sitja í kringum borðið og Krists myndin í öndvegi. Frelsarinn hefir tilkynt postulunum að einn þeirra muni svíkja sig. Lærisveinarnir horfa á Meistarann, allir með sömu spurningu á vörunum: "Meistari hver er það". En Judas er niðurlútur og salt karið hjá honum liggur á hliðinni. Hin litríku austurlanda klæði gera myndina í litgleri eins og lifandi persónur. Á bak við gluggann eru ljós sem byrja að ljóma að baki Krists myndarinnar og smá færast yfir postula hópinn báðu megin. Svo smá dofna þau og síðast er aðeins Krists myndin uppljómuð—þar til hún einnig er horfin.

"I believe in a happy Eternal Life. I believe those of us left behind should be glad in the certain belief that those gone before have entered into that happier Life.

I believe, most of all, in a Christ that smiles and loves you and me."

—From the "Builder's Creed".

**M. Stephensen.**

# PAULINE E. JOHNSON

**By Vordís Friðfinnsson, B. A.**

When Mrs. Olafsson wrote to me this spring she asked me to give a talk of at least half an hour's duration on any subject I chose. I wish to thank her for holding so high an opinion of me as to imagine that any audience could bear up under the strain of listening to me for half an an hour or more. While I feel a little guilty in not complying completely with her request, I am happy to assure you that though the pain will be severe while it lasts it will not last half an hour.

I was also asked to speak in Icelandic but am not doing so because of the nature of the topic I have chosen—which is the Canadian poetess E. Pauline Johnson. I feel that I can best deal with this topic by quoting liberally from her poetry, which is written in English.

The fact is often brought forth that Canada is a country where poetry does not flourish well, and where poets are not honored and patronized. This is perhaps partly because Canadians as yet are occupied greatly with material concerns and do not rank poetry high in their scale of values. As a result those who dabble in poetry are often regarded as beings who are wasting their time away on idle pleasures instead of following other more useful pursuits.

While material wants need to be satisfied it is also true that man does not live on bread alone. He needs to gratify his soul with love of beautiful things, he needs to share his thoughts and feelings with others, to be appreciated and understood, and to appreciate and understand.

In our modern world we are becoming increasingly aware that we cannot live in isolation. What happens to other people is very important to us because society has become so closely tied together that what happens to one part of it indirectly influences the other parts.

Since this is so it is important that people understand how other people think and feel and they may enlarge their own thoughts and feelings expressed by poets in their poetry. Therefore it seems that there is truth in what the great critics of the past have always maintained—that the function of poetry is not only to please but also to instruct.

This is true of poetry that expresses personal feelings and thoughts

as well as of poetry that expresses the feelings of groups of people or races. It was poetry of the latter kind that I was particularly interested in when I decided to say a few words about Pauline Johnson. Poetry that expresses the attitude of its different racial groups should certainly be of value in promoting understanding among the many national groups which Canada is made up of. The poetry of Pauline Johnson is of particular interest because through it we can enter into the feelings and attitude of a racial group in Canada that is often disregarded and misunderstood—the Indians.

E. Pauline Johnson was a daughter of the chief of the renowned Mohawk Indian tribe and his English wife Emily Howells. Chief Johnson was head chief of the Six Nations Indians which were known as the Brotherhood of the Five Nations, but were afterwards named the Iroquois by the early French explorers. These Iroquois Indians were noted for their loyalty to the British crown and fought on the British side against both the French and the revolting American colonists. Because of this they were granted a large reserve of magnificent lands in Ontario. On this reserve Pauline Johnson was born.

There is plenty of evidence in her poetry that she is of Indian blood and that she feels keenly the injustice that the Indian has suffered at the hands of the white man. This is illustrated in her poem "The Cattle Thief". This poem tells of the British soldiers who are pursuing an Indian, Eagle Chief who has been stealing their cattle. The end of this poem reflects the bitterness of the Indians and their resentment of the white settlers.

"Give back the furs and the forests
    that were ours before you came;
Give back the peace and the plenty. Then
    come with your new belief,
And blame, if you dare, the hunger that
    drove him to be a thief."

But Miss Johnson's poetry reflects also that there is British blood in her veins. This is seen in the poem "A Cry From An Indian Wife. In this poem the Indian woman is urging her forest brave to rise up and and fight the British. She says:

"Go; rise and strike no matter what the cost."

Then her loyalty to the British rises uppermost in her heart.

"Yet stay. Revolt not at the Union Jack,
Nor raise thy hand agains this stripling pack
Of white faced warriors, marching West to quell
Our fallen tribe that rises to rebel.
They all are young and beautiful and good;
Curse to the war that drinks their harmless blood.
Curse to the fate that brought them from the East
To be our chiefs—to make our nation least
That breathes the air of this vast continent.
Still their new rule and council is well meant."

But she finds it hard to justify the British.

"They but forget we Indians owned the land
From ocean unto ocean; that they stand
Upon a soil that centuries agone
Was our sole kingdom and right alone.
They never think how they would feel today,
Wresting their country from their hapless braves,
If some great nation came from far away,
Giving what they gave us—but wars and graves."

Again in the poem the conflict between these two loyalties is seen—

"take your tomahawk and go.
My heart may break and burn into its core,
But I am strong to bid you go to war.
Yet stay, my heart is not the only one
That grieves the loss of husband and of son;
Think of the mothers o'er the inland seas;
Think of the pale faced maiden on her knees;
One pleads her God to guard some sweet faced child
That marches on toward the North-West wild.

The other prays to shield her love from harm,
To strengthen his young, proud, uplifted arm.
Ah how her white face quivers thus to think,
Your tomahawk his life's best blood will drink."

But when she seems to see most clearly the British point of view she switches again to the side of the Indian and the dominant note at the end of the poem is sympathy for the Indian and a keen sense of the injustice he has suffered. The Indian wife in the poem rejects her generous feeling toward her enemies because she feels that the British wife would have no sympathy for her viewpoint.

"She never thinks of my wild aching breast,
Nor prays for your dark face and eagle crest
Endangered by a thousand rifle balls,
My heart the target if my warrior falls.
O! coward self I hesitate no more;
Go forth, and win the glories of the war.
Go forth, nor bend to greed of white men's hands,
By right, by birth we Indians own these lands,
Though starved, crushed, plundered, lies our nation low . . .
Perhaps the white man's God has willed it so."

These two are not the only poems in which Pauline Johnson laments the fate of the Indian. I will mention only one more, "The Corn Husker", a short poem about an old Indian woman who is gathering the corn.

"Age in her fingers, hunger in her face,
Her shoulders stooped with weight of work and years,
But rich in tawny coloring of her race,
She comes afield to strip the purple ears.

And all her thoughts are with the days gone by,
Ere might's injustice banished from their lands
Her people, that today unheeded lie,
Like the dead husks that rustle through her hands."

In the last lines particularly we feel how low the Indian has fallen.

In very many of her poems Miss Johnson reflects her love of nature. She delighted in canoeing and loved being in Canada's great outdoors. She is probably best known for her canoeing poems many of which are so delightfully musical that they practically sing themselves. Probably the best known of these is the "Song my Paddle Sings." I will quote only the last two stanzas of this canoeing poem.

"We've raced the rapid, we're far ahead!
The river slips through its silent bed.
Sway, sway,
As the bubbles spray.
And fall in tinkling tunes away.

And up on the hills against the sky,
A fir tree rocking its lullaby,
Swings, swings,
Its emerald wings,
Swelling the song my paddle sings."

Another canoeing poem, the one that I like best of all is"Muskoka" or "Shadow River". It is particularly dreamy and beautiful.

"A stream of tender gladness,
Of filmy sun, and opal tinted skies;
Of warm midsummer air that lightly lies
In mystic rings,
Where softly swings
The music of a thousand wings
That almost tones to sadness.

Mine is the undertone;
The beauty strength, and power of the land
Will never stir or bend at my command;
But all the shade
Is marred or made
If I but dip my paddle blade;
And it is mine alone.

O! pathless world of seeming!
O! pathless life of mine whose deep ideal
Is more my own than ever was the real.
For others Fame
And Loves red flame,
And yellow gold; I only claim
The shadows and dreaming.

Pauline Johnson died in March, 1913, after an illness of two years. After her doctor told her that her illness would prove fatal she composed the poem "And He Said. 'Fight On'". The opening stanza illustrates the spirit with which she endured the long months of suffering.

"Time and its ally, Dark Disarmament
Have compassed me about;
Have massed their armies, and on battle bent
My forces put to rout,
But though I fight alone, and fall, and die,
Talk terms of peace? Not I."

I think I can conclude in no better way than by quoting the last paragraph from the biographical sketch that prefaces her poems

"It is eminently fitting that this daughter of nature should have been laid to rest in no urban cemetery. According to her own request she was buried in Stanley Park, Vancouver's beautiful heritage of the forest primeval. A simple stone surrounded by rustic palings marks her grave and on this stone is carved one word "Pauline". There she lies among ferns and flowers a short distance from Siwash Park, the story of which she has recorded in the legends of her race. In time to come a pathway to her grave will be worn by lovers of Canadian poetry who will regard it as one of the most romantic of our literary shrines."

---

# SKÝRSLA FORSETA.

Kæru félagssystur:–

Það er mér gleðiefni að mega nú ávarpa ykkur á okkar eigin heimili sem þið hafið allar hjálpað til að byggja. Eg vona að þær stundir sem við eyðum hér saman verði okkur öllum gleðiríkar og lífi okkur í minni sveipaðar sólskini og sumarblæ.

Þetta ár sem liðið er síðan við mættumst síðast hefur verið viðburðaríkt í sögu Bandalagsins að því leyti að á fót komst ákveðið sumarstarf hér á þessum stað. Í skýrslu minni síðastliðið sumar dvaldi eg við vonir okkar í því efni og skýrði frá hinu mikla starfi byggingarnefndarinnar. Eins og ykkur mun öllum kunnugt, voru þessar sumarbúðir starfandi í 6 vikur, aðsókn mátti heita góð og allt gekk slysalaust og ánægjulega. Nú er þreytan gleymd en ánægjulegar endurminningar vara.

Síðastliðið haust eftir að búðum var lokað var gert mikið verk hér á staðnum: minningarskálinn bygður að mestu leyti fyrir hina ötulu frammistöðu Sveins Pálmassonar–skógarrjóðrið niður við vatnið hreinsað og slett o.fl. Verkið var unnið af Ditchfield and Sons frá Winnipeg undir umsjón S. O. Bjerring. Gerði hann sér margar ferðir hingað í sambandi við það starf.

Áður en eg lýk ummælum um þennan þátt starfsins vildi eg aðeins segja þetta, eg þakka af hjarta öllum þeim sem hafa unnið svo vel og aðstoðað Bandalagið á einn eða annan hátt. Árangurinn væri ekki sá sem orðið er ef fjöldin hefði ekki verið með í gjafir, áhugi, ráðleggingar, hlýhugur og bænir fjöldans hafa verið hér að verki. Við höfum sannfærst um að Guð væri með í þessu verki þess vegna er framtíð þess örugg. Starfið á þessum stöðvum er nú rétt að byrja, við megum ekkert láta ógjört til þess að það verði blessunarríkt og göfugt. Megi hér verða sáð mörgum frækornum í sálir hinna ungu sem beri mikin ávöxt. Eg átti tal við dreng sem dvaldi hér í fyrra nú fyrir nokkrum dögum, hann var fremur sver í lund, hafði mist báða foreldra sína og átt óbliða æsku, kom hingað ókunnugur okkur öllum fyrir tilstilli félags er sendi nokkra unglinga hingað í fyrra. Hann var ekki íslenzkur að ætt. Hann sagðist aldrei mundi gleyma þessum dögum sem hann dvaldi hér, og eg spurði, hvað hefði nú hrífið hann mest, hann svaraði. "I like to think of Vesper Hour, when you called us to evening prayer, and it was getting dark.

The waves and the wind in the trees and our prayer all went together"— svo þagði hann í augnablik og bætti svo við—"I felt that God was very near." Þessi vitnisburður þessa einmana drengs sem mér virtist dálítið hörkulegur og erfiður þegar hann kom til okkar, var mér dýrmætt gleðiefni.

Sunnudagaskólanefnd Bandalagsins hefur verið starfandi þetta ár, fyrir dugnað Mrs. Henrickson hafa nú nokkrir unglingar úr prestlausum bygðum byrjað að taka Correspondence Course í sunnudagaskólaverki hjá Miss Elenore Gillstrom. Vonum við að það eigi framtíð fyrir höndum.

Á síðasta þingi var kosin milli-þinga nefnd til að yfirfara lög Bandalagsins. Hefir sú nefnd haldið nokkra fundi og leggur nú fyrir þetta þing árangur þess starfs. Bið eg ykkur að íhuga vandlega lögin sem hafa nú þegar verið útbýtt á meðal ykkar. Breytingar verða án efa gerðar á þessu þingi og lögin svo samþykkt, verða þau svo prentuð á íslenzku og ensku og útbýtt á meðal kvennfélaganna.

Á síðusta þingi var samþykt að hækka verð ársrits okkar upp í 50c. þar sem bæði pappír og prentun hafa hækkað í verði. Ritið mun hafa selst eins vel og áður ef ekki betur, engin rödd sem túlki óánægju út af þessari verð hækkun hefur mér borist. En eg hef heyrt nokkra óánægju yfir að ein ensk ritgjörð sem í ritinu er, tæki of mikið rúm. Á öllum sviðum erum við stödd í nokkrum vanda nú hvað tungumálin snertir, og óhugsandi að geta gert öllum til hæfis. Gott er að muna að það eru aðallega okkar góðu eldri íslenzku konur og menn sem Árdísi lesa, veit eg vel að vinsældir hennar aukast ekki við að hafa mikið lesmál þar á enskri tungu.

Það var fyrir þremur árum síðan á þingi í Langruth að eg lét tilleiðast að taka við forseta embætti á ný. Útnefninga nefndin sem þar var að verki lofaði mér því þá, að eg mundi verða leyst frá því starfi áður en mjög langt liði, ef eg óskaði þess. Þessi ár hafa verið mér að öllu leyti til gleði. Þið kæru félagssystur hafið allar tekið höndum saman til að árangur yrði sem mestur. Nú finnst mér að nefndin sem íhugar útnefningar ætti alvarlega að hugsa um að nú er tími til að breyta til. Starfið er nú þannig statt að engin óhætta mun vera í því. Mér finnst eg hafi nú lokið þeim þætti starfsins sem eg ætlaði mér sérstaklega, sem var að hjálpa ykkur til að byggja þessar sumarbúðir. Eins lengi og eg lifi verður þetta starf mér hjartfólgið, en eg væri nú svo glöð að sjá einhverja aðra taka við leiðsögn.

Eg vildi lýsa gleði minni yfir því að á þessu þingi eru með okkur svo margar af okkar góðu meðlimum sem þing hafa setið ár eftir ár. Einnig er mér það mikið gleðiefni að hér eru nokkrar konur sem ekki hafa verið með okkur á þingi fyr. Á þessu ári hafa orðið mörg dauðsföll og sjúkdóms tilfelli meðal meðlima Bandalagsins. Við geymum í þakklátum huga minningar um störf og áhrif þeirra sem heim hafa verið kallaðar og þökkum guði fyrir heilsubót og nýja krafta sem mörgum hefur hlotnast. Í dag dvelur hugur okkar hjá einni af okkar ágætu félagssystrum sem dvelur á sjúkrahúsi eftir að hafa orðið fyrir alvarlegu slysi, Mrs. H. S. Erlendson frá Árborg, hún hefur starfað lengi og vel í þessum félagsskap og átti svo mikin þátt í að undirbúa þetta þing. Okkur er það mikið gleðiefni að hún er á góðum batavegi og biðjum guð að gefa henni fullan bata.

Svo legg eg starf þessa þings í ykkur hendur. Í þessum minningarskála veit eg að við eigum saman indælar stundir, veit að hér ríkir samúð, eining og einlægni. Af hjarta biðjum við þess allar að blessun Drottins hvíli yfir þessum stað, yfir öllum áformum og starfi þessa þings.

Selkirk, 20. júní 1947.

Ingibjörg J. Ólafsson.

---

# LÚTERSKT SUNNUDAGASKÓLA KENNARA SAMBAND STOFNAÐ.

Á sunnudagaskólakennara móti því er haldið var í Sunrise Lutheran Camp, Húsavík, 27.–29. júní s.l., þá komu saman þar 42 kennarar og leiðtogar frá Winnipeg, Selkirk, Gimli, Árborg, Lundar, Langruth, Baldur og Garðar, N. D. Þessi fjöldi var framyfir allar vonir nefndarinnar, en við óskum samt að hópurinn stækki ár frá ári og það eru mikil líkindi til þess að svo verði, ef dæma mætti af áhuganum sem var svo augljós á móti þessu.

Á starfsfundi sem haldinn var, áttu sér stað fjörugar umræður og margar hugmyndir komu þar í ljós, sem var ákveðið að koma í framkvæmd. Mrs. B. Bjarnarson, Langruth, flutti stutt erindi um endurminningar hennar frá æskuárunum er hún naut góðrar leiðsagnar og fræðslu

sunnudagaskóla hjá kennurum og prestum. Hún mintist sérstaklega á þau góðu áhrif er hún varð fyrir hjá séra Rúnólfi Marteinson. Svo sagði hún frá starfi sínu sem forstjóri sunnudagaskólans í Langruth í mörg síðastliðin ár. Erindi hennar leiddi til þess að stjórnarnefndinni var falið að sjá um að einhverjum sé tilkynt það ef börn og unglingar komi ókunnug í þeirra bygðarlag, svo að þau séu boðin velkomin í kirkjuna og sunnudagaskólann. Einnig orsakaði hið góða erindi hennar það, að nefnd var sett í að mynda safn af sálmum sem væru sérstaklega við hæfi yngri barna.

Mrs. I. W. Hart, Winnipeg, flutti erindi sem útlagði hugmyndir hennar um stofnsetningu sunnudagaskóla kennara sambands. Fyrsta sporið sagði hún væri að velja góðan leiðtoga og nefnd til þess að aðstoða hann. Ábyrgð þeirra er svo að undirbúa hið árlega mót, að velja fyrir það forstjóra og ræðufólk, að ákveða starfsskrána með það í huga að hafa hana eins uppbyggilega og hægt er, og að sjá um að mynda og auka fjárhagssjóð eftir því sem nauðsyn krefur. Hún lagði áherzlu á það að nefndin héldi uppi sambandi við kennarana yfir árið, til þess að útbreiða hugmyndir og að fá úrlausn á ýmsum vandamálum.

Þar á eftir var ákveðið að stofna samband og var valið nafnið: "Lutheran Sunday School Teacher's Association." Það var ósk fundarins að sama nefndin og í fyrra starfaði áfram. Er þá forseti sambandsins: Mr. Gissur Eliasson; skrifari Miss Josephine Ólafsson; féhirðir Miss Lilja Guttormsson. — Aðstoðarnefnd var útnefnd og samanstendur hún af einum kennara frá hverjum sunnudagaskóla innan kirkjufélagsins. — Ákveðið var að halda mót árlega í Sunrise Lutheran Camp.

Þetta mót var uppbyggilegt í alla staði. Miss Elenore Gillstrom frá Saskatoon flutti erindi um: "Kristindóms fræðsla og kennarinn", mjög fróðleg og vekjandi ræða sem leiddi til umræðu og spurninga. — Það gafst ekki einu sinni tími til þess að svara þeim öllum. Séra Eric Sigmar flutti ávarp um hið mikla starf drottins, sem alltaf er í þörf fyrir fleira og betra starfsfólk. Þessi ungi prestur heillaði hugi allra með sinni fallegu framkomu og hvetjandi orðum.

Mrs. H. G. Henrickson ávarpaði fundinn fyrir hönd B.L.K. Hún útlagði sunnudagaskólastarf félagsins í prestslausum byggðum. Einnig ávarpaði Mrs. A. H. Gray fundinn.

Á laugardagskveldið fór fram skemtiskrá og samfélagsstund. Á skemtiskránni voru: — 1. "Sextette"-sunnudagaskóla kennarar frá Winni-

peg, þær: Miss Grace Ruppel, Miss Florence Pálsson, Miss Viola Hald erson, Miss Sylvia Guttormsson, Miss Gloria Johnson og Miss Hildu Thorsteinsson. — 2. Quartette — frá sama stað — þeir: Arnold Björnsson Valdimar Eylands, Cecil Johnson og Baldvin Thorsteinsson. Miss Cor inne Day, organisti sunnudagaskólans, aðstoðaði báða flokkana. — 3 Einsöngur: Miss Olive Olson, Selkirk. — 4. Söngflokkur sunnudagaskól ans á Gimli, æfður og aðstoðaður af Mrs. Önnu Stevens, fyrir tilstill Mrs. S. Sigurgeirsson. — 5. Einsöngur: Séra Eric Sigmar, sem stjórnað svo almennum söng. Mrs. Florence Broadly aðstoðaði við þennan söng — Eftir kaffidrykkju tóku allir þátt í gamanleikjum, þar sem þeim gafs tækifæri til þess að kynnast.

Á sunnudagsmorguninn kl. 8 fór fram hátíðleg guðsjónusta á vatns ströndinni. Þar prédikaði séra E. Sigmar og leiddi þennan söfnuð messusvörum og sálmasöng. Sólin skein þar, björt og fögur, endurspeglu í vatninu, og túlkaði til okkar þar þýðingu starfsins í "Sunrise Lutheran Camp".

Séra Skúli Sigurgeirsson ávarpaði kennarana með hughreystand orðum og lét í ljósi ánægju sína yfir þessu fyrir hugsuðu starfi þeirra.

Eftir hádegi var sýnd hljómhreyfimynd sem nefnist: "On the Road to Damascus". Þetta sýndi eina aðferð sem nota má við sunnudaga- kennslu.

Til sýnis voru þarna sunnudagaskóla-lexíur og bækur fyrir yngri og eldri börn, með ýmsum hugmyndum fyrir starfið. — Kennararnir tóku þær heim með sér, sér til leiðbeiningar. —

Séra Rúnólfur Marteinsson prédikaði við loka-guðsþjónustuna kl. 2, og skildi eftir í hjörtum okkar þá hvöt að auka, bæta og glæða áhuga fyrir sunnudagaskólastarfinu.

**Lilja Guttormsson,**

fyrir hönd nefndarinnar.

---

# TWENTY-THIRD CONVENTION

**of the Lutheran Women's League,**

**held in Sunrise Lutheran Camp, Husavick, Manitoba,**

**June 22–24, 1947.**

**Dedication of Memorial Hall**—The recently erected memorial hall was dedicated Sunday, June 22, by Rev. E. H. Fafnis, president of our Synod. The service was conducted by Rev. Skuli J. Sigurgeirson and the sermon preached by Rev. Bjarni A. Bjarnason. The Arborg Church Choir rendered anthems with Mr. Herman Feldsted as soloist and Mrs. Magnea Sigurdson as pianist. Rev. Sigurgeirson read the Scroll which included the names of those fallen service-men of both world wars, in whose memory donations had been given toward the Memorial Fund. Several memorial gifts were presented for the hall, including the lovely flowers that adorned the altar.

The formal opening of the convention was then performed by Mrs. Ingibjorg J. Olafsson, president of the Lutheran Women's League.

Lunch was served to the gathering of two hundred and fifty under the supervision of the executive and camp committee of the L.W.L.

**Sunday, 8 p.m.—Program.**

Address of Welcome—Mrs. Ingibjorg J. Olafsson.

1. Address—Rev. Eric Sigmar, pastor, Argyle district.
2. Address—Rev. Egill H. Fafnis, president, Icelandic Synod.
3. Presentation—Rev. Fafnis presented a Pulpit Bible to the L.W.L. for the Memorial Hall, from the Ladies' Aid at Grund, in memory of a deceased member, Mrs. Kristín Christopherson.
4. Vocal Solo—Mrs. H. Franks, assisted by Miss Miller, both of Gimli.
5. Paper—"New Horizons"—Miss Margaret Nix, Director of Public Health and Welfare in Manitoba. The speaker was introduced by Mrs. H. G. Henrickson and thanked by Mrs. O. Stephensen.
6. Piano Solo—Miss Allison Miller, Gimli.
7. Vocal Solo—Little Lorna Stefanson, accompanied by Mrs. Anna Stevens, Gimli.
8. Paper—"Christian Leadership"—Mrs. Lena Thorleifson, Langruth.

**Monday, June 23, 9 a.m.**

Devotional Exercises—Mrs. Fjola Gray, Winnipeg.

Address of Welcome, on behalf of the Ladies' Aid Societies of Arborg, Geysir and Vidir–Mrs. Anna Austman, Vidir.

Business Meeting until 12 o'clock.

1.45–6.00 p.m.–Business Meeting.

8.00 p.m.–Program.

Devotional Exercises–Mrs. Sigridur Sigurgeirson, Gimli.

Chairman's Address–Mrs. Fjola Gray.

1. Chorus–Young girls from Arborg, trained and accompanied by Mrs. Florence Broadly.
2. Paper–"The Poetess, E. Pauline Johnson"–Miss Vordis Fridfinnson, Geysir.
3. Chorus–The Arborg girls.
4. Vocal Solo–Mrs. Alma Bjarnason, Arborg, assisted by Mrs. Magnea Sigurdson.
5. Chorus–The Arborg girls.

Rev. Bjarni A. Bjarnason, Arborg, addressed the Convention.

**Tuesday, June 24.**

9–12 a.m.–Business Meeting.

1.30–3.00 p.m.–Business Meeting.

3.00–4.00 p.m.–Handicraft Exhibit.

4.00–6.00 p.m.–Business Meeting.

8.00 p.m.–Program.

Devotional Exercises–Mrs. Henrickson.

1. Chorus–Sunday School Choir from Gimli, accompanied by Mrs. Anna Stevens.
2. Paper–"Ideals"–Mrs. Margret Stephensen.
3. Vocal Solo–Mrs. Alma Bjarnason, accompanied by Mrs. Magnea Sigurdson, Arborg.
4. Recitation in Icelandic–Josephine Gislason, Geysir.
5. Vocal Solo–Miss Svafa Palsson, Geysir, with Mrs. Florence Broadly, Arborg, at the piano.
6. Recitation in Icelandic–Gudrun Skulason, Geysir.

Rev. Skuli Sigurgeirson, Gimli, addressed the Convention.

Mrs. Olafsson thanked the gracious hospitality of the Arborg, Geysir and Vidir Ladies' Aids who served all meals and lunches.

Convention adjourned–Mrs. Olafsson.

**The President honored**—Before the Convention closed, a gift was presented to Mrs. Olafsson in honor of the occasion of her 25th wedding anniversary, June 30th. The gift was a Sheaffer's ball-point pen, suitably engraved, plus a sum of money, toward which all those attending contributed. The presentation was made by the honorary president, Mrs. Hansina Olson. Mrs. Olafsson thanked the speaker for her kind words, and the donors for their generosity and good-will.

**Convention Business in Brief.**

Before proceeding with the business, the president read the names of members who had passed away during the year, as follows: Mrs. Kristín Cristopherson, Grund; Mrs. Kristjana Johannesson, Glenboro; Mrs. Steinun Stefanson, Selkirk; Mrs. Thorunn Melsted, Winnipeg; Mrs. Olina Erlendson, Geysir; Mrs. Sesselja Gudmundson, Arborg; Mrs. Anna Sigurbjorg Olafsson, Brown; Mrs. Kristín Palson, Riverton; Mrs. Maria Sigurdson, Geysir; Mrs. Mary Isleifson, Glenboro; Mrs. Elsabet Jonasson, Arnes. A silent tribute followed by the Lord's Prayer, consecrated their memory.

The Convention sent a message of sympathy to Mrs. Erlendson who was in hospital following an accident. We missed her presence, as she is one of our most faithful and staunch workers.

Accredited representatives attended the Convention as follows: 31 delegates from 18 societies, 25 officers and committee members, plus 1 individual member, making a total of 57. Four new individual members joined the League and they are: Mrs. J. K. Stevens, Minerva; Mrs. G. E. Narfason, Gimli; Mrs. Maria Johnson, Winnipeg and Mrs. O. Thorsteinson, Husavick. (Names of delegates appear in July 10th issue of Logberg.)

Reports were submitted by the various officers and conveners outlining the year's work of the L.W.L., and also by 19 of the 21 societies within it. The total membership is about 650 women who devoted their time and energy to worthwhile efforts within their particular societies and within the League as a whole. The societies have on their agenda the following: church and Sunday school work, home and foreign mission work, charity, post-war work, and cultural work. In fact, practically every philanthropic enterprise that comes to their notice, receives their attention and generous support. Particularly are they interested in the Camp project which they support by gifts of articles and money as well

as personal time and energy in many instances. In proof of this just take a trip and look at Sunrise Lutheran Camp, a tangible result of their efforts.

**Finances**—The treasurer's report showed: Balance on hand last year, $221.14; Receipts, $49.17; Disbursements, $47.60; On hand June 1, 1947, $222.71. The General Camp Building Fund showed: Balance on hand last year, $841.29; Receipts, $3,194.69; Disbursements, $3,608.44; On hand June 1, 1947, $427.54. The Memorial Fund showed: Balance on hand last year: $1,585.11; Receipts, $1,380.70; Disbursements, $2,540.25; On hand June 1, 1947, $425.56. The "Ardis" financial report showed: Balance on hand last year, $472.43; Receipts,$957.22; Disbursements, $854.04; On hand June 1, 1947, $575.61. The Alumni Fund showed $48.00 on hand. All reports were audited by chartered accountants.

**The Agenda:**—

1. **The Constitution**—At our convention a year ago a committee was elected to revise the constitution of the Lutheran Women's League. This committee performed its task most ably and conscientiously, and submitted a thorough report at this convention. Some articles were changed and new ones were added, thus adapting the constitution to the League's new project, the camp. Some minor changes and additions were taken into consideration, whereupon the revised set of laws as a whole was unanimously adopted by the convention.

2. **The Camp**—The Sunrise Lutheran Camp is now a reality, a dream come true. The erection of the Memorial Hall this spring concluded the building process except for a few minor details of inside work to be done. The dedication of the Hall on June 22nd brought to a climax this project, the project which was just a dream, and idea, at our convention held in the Canadian Sunday School Mission Camp in 1941. But the idea then was hopeful enough to justify the establishment of a basic fund of $536.00 at that convention. This little fund received popular support and grew in spite of unfavorable war conditions, grew to such proportions as to cover the expenses of erecting five buildings in 1946, namely the dining hall and kitchen, two dormitories, staff house and a hospital. A special Memorial Fund defrayed the expenses in connection with the Hall built this year.

The head carpenter, Mr. Sveinn Palmason, Winnipeg Beach, deserves special mention for outstanding work. His two helpful assistants

in connection with buying, etc., were Mr. Hrolfur Sigurdson, Gimli and Mr. S. O. Bjerring, Winnipeg.

Many finishing touches inside the buildings and on the camp grounds have yet to be done and plans are under way to construct a road, paths, a fence, a tennis court, etc. It was proposed to establish a **camp library,** for which a little room was built in the Hall. Some books have already been donated. A committee was named to be in charge of collecting books, its members being: Mrs. Flora Benson, Winnipeg; Mrs. Sigthora Tomasson, Hecla; Mrs. Ingunn Fjeldsted, Arborg.

Numerous articles have been donated to the camp by individuals and societies; many were brought to the convention, including pillows, quilts and blankets. In time we hope to have an ample supply to cover the camp's requirements.

**Operation of the Camp**—In the operation, as well as in the building, of the camp, the outstanding leadership qualities of our president, Mrs. I. J. Olafsson and our camp committee convenor, Mrs. Fjola Gray, have come to the fore. With the splendid co-operation of their committees and of the various Ladies' Aid Societies, their work has spelt success. In her report Mrs. Gray stated that 150 campers had attended last summer with 20 leaders and workers throughout the season. All these people gave good reports of their stay. This summer the attendance is even greater. The program for 1947 was—Convention, June 22—24; Sunday School Teacher's Rally, June 27—29; Christian Leadership Training Course, with Rev. E. H. Fafnis as Dean of Camp, July 2—11; Boys, 7—14 years, July 12—23; Minister's Retreat, July 24—28; Mothers with children, July 29—August 5; Girls, 7—14 years, August 6—15. All groups have been well attended except the "Mothers-with-children Group".

A board of Directors was chosen at the Convention to supervise all work at the camp being responsible, however, to the L.W.L. convention. (See—"Election of Officers".)

3. **Sunday School Work**—Mrs. H. G. Henrickson outlined the work done in outlying districts in past years through the L.W.L. She has been the leader in this work for many years, sending out literature and teachers when possible. This year she devoted her efforts to enrolling children in these districts, chiefly out along Lake Manitoba, with "Sunday School by Mail", a course under the direction of Miss Elenore Gillstrom, U.L.C.A. representative in Canada, with headquarters at Saskatoon,

Sask. So far, about 21 Icelandic children are taking this course, children who otherwise would have no opportunity of attending church or Sunday school. Miss Gillstrom's objective is an enrollment of 1,000 in her district as a whole. A committee of three was appointed to further the work through visitations, etc.; they are: Mrs. Elizabeth Bjarnarson, Langruth; Mrs. H. G. Henrickson, Winnipeg; Mrs. Sigridur Sigurgeirson, Gimli.

4. **Temperance**—Mrs. Margret Bardal, our representative with the Manitoba Temperance Alliance, read a stirring paper on the subject. This paper led to an interesting discussion, and it was followed by a resolution which expressed appreciation of Mrs. Bardal's work, and urged members to further temperance education in every way possible. Mrs. Bardal was entrusted with securing a speaker on Temperance for the Leadership Training Course. She was re-elected as our M. T. A. representative. A sum of $25.00 was voted in aid of the society.

5. **Ardis**—Our year-book, Ardis, proves its popularity every year. Two languages are used in order to reach a larger number of readers. It was unanimously agreed to publish papers in the language which they were delivered. We know that Icelanders love their language and would perhaps favor its exclusive use in Ardis, but we must remember that, as a Lutheran organization, our primary objective is the spread of Christianity, therefore, we must use some English for the benefit of those who do not understand Icelandic.

6. **Handicraft Exhibit**—This annual exhibition is becoming more varied and more noteworthy every year. An article that aroused great interest this year was an Icelandic national costume in miniature fashioned by Mrs. Gudrun Johnson. A special feature of the exhibit was a demonstration in weaving by Mrs. Albert Wathne, who, with the assistance of her husband, brought and put up her loom. She worked on a beautiful piece of cloth to show us how weaving is done. A handicraft committee was named to establish a special collection to be on exhibit at the Sunrise Camp. On it are: Mrs. Albert Wathne; Mrs. E. W. Perry and Mrs. Gudrun Johnson.

7. **Election of Officers**—

Honorary Lifetime President—Mrs Gudrun Johnson.

Honorary Life Members—Mrs. Ingunn Marteinsson; Mrs. Hansina Olson; Mrs. Erika Thorlaksson; Mrs. Sigrun Thorgrimsson, Mrs. Ingirid-

Jonsson; Mrs. Helga Bjarnason; Mrs. Stefania Sigurdsson; Mrs. Stefania Leo.

Past President—Mrs. Lena Thorleifson, Langruth.

President—Mrs. Ingibjorg J. Olafsson, Selkirk.

Vice-President—Mrs. H. G. Henrickson, Winnipeg.

Recording Secretary—Miss Lilja M. Guttormsson, Winnipeg.

Corresponding Secretary—Mrs. Clara Finnson, Winnipeg.

Treasurer—Mrs. Rosa Johannsson, Winnipeg.

Vice-Treasurer—Mrs. E. W. Perry, Winnipeg.

**Executive—**

Mrs. Margret Bardal, Winnipeg; Mrs. Olga Arason, Glenboro; Mrs. Gerda Olafsson, Winnipeg; Mrs. Sigridur Sæmundson, Selkirk; Mrs. Elin Sigurdsson, Sandy Hook.

**Ardis—**

Editors—Mrs. Margret Stephensen, Wpg.; Mrs. Flora Benson, Wpg.

Publishing Committee—Mrs. Gudrun Johnson, and Mrs. Lauga Johannesson, Wpg.; Mrs. M. M. Jonasson and Mrs. Loa Olafsson, Arborg.

**Board of Directors for Sunrise Camp—**

For a period of two years—Rev. E. H. Fafnis; Dr. E. Johnson, Selkirk; Mr. S. O. Bjerring, Winnipeg; Mr. Sveinn Palmason, Winnipeg Beach; Mrs. Kristrun Sigurdsson, Riverton; Mrs. Gudrun A. Erlendson, Arborg; Mrs. Carl Thorsteinson, Baldur; Mrs. Anna Magnusson, Selkirk; Mrs. Ingibjorg Ganton, Lundar.

For a period of one year—Mr. Marteinn M. Jonasson, Arborg; Mr. Hrolfur Sigurdsson, Gimli; Mrs. H. G. Henrickson, Winnipeg; Mrs. Fjola Gray, Winnipeg; Miss Inga Bjarnason, Winnipeg; Mrs. Sigridur Sigurgeirson, Gimli; Mrs. Elizabeth Bjarnarson, Langruth; Mrs. Gudlaug Arason, Husavick.

**Delegates appointed to next year's Synodical Convention are—**

Mrs. Carl Thorsteinson, Baldur; Mrs. Elizabet Bjarnarson, Langruth. Alternate Delegates: Mrs. Ingibjorg Ganton, Lundar; Mrs. Anna Magnusson, Selkirk.

**Nominating Committee—**

Mrs. Aldis Petursson, Arborg; Mrs. Flora Benson, Winnipeg; Mrs. Anna Austman, Vidir; Mrs. E. W. Perry, Winnipeg; Mrs. K. Sigurdson, Sandy Hook.

**Lilja M. Guttormsson, Recording Secretary.**

# SKÝRSLA SUMARBÚÐA NEFNDAR.

Eftir Fjólu Grey.

Á síðastliðnu kirkjuþingi var það gleðiefni fyrir Bandalag lútersk kvenna að kynna hinu Evangeliska lúterska kirkjufélagi í Vesturhei að það fyrirtæki sem það hafði haft í huga um margra ára tímabil—va nú orðið að veruleika. Það að byggja sumarbústað þar sem mætti leið ungdómin nær kirkju og kristindómi, og einnig njóta lífshressingar vi brjóst náttúrunnar á þessum fagra stað við strönd Winnipegvatns.

Minningarskálinn var bygður seint í haust. Sú bygging var reis fyrir peningagjafir sem var okkur sent í minningu um þá menn er mist lífið í báðum heimsstríðunum. Þessi bygging er ekki fullgerð, en verðu vígð Sunnudagin, 22. júní, og verður notuð sem kenslusalur í sumar.

Til að koma öllu þessu í verk hefir okkur stundum fundist nauðsy á kraftaverki. Það hefir verið mjög erfitt að fá við og önnur efni. E þegar það var fáanlegt, þá stóð ekki á smiðunum til að koma bygging unum áfram. Eg vil hér með, fyrir hönd B.L.K. opinberlega þakka Mr Sveini Pálmassyni, Winnipeg Beach, fyrir framúrskarandi mikið og ve unnið verk: að sjá um og byggja Sunrise Lutheran Camp að Húsavík Manitoba. Einnig vil eg votta þakklæti til Mr. S. O. Bjerring, Winnipeg og Mr. Hrólfs Sigurðsson, Gimli, sem ætíð fúslega lögðu sig fram til a útvega og sjá um hvað sem þeir voru beðnir um. Þessir menn eiga fram úrskaranda mikinn þátt í framkvæmdum þessa bygginga starfs.

Eg vil einnig minnast þeirra kvenna úr ýmsum bygðarlögum o bæjum sem lögðu sig fram að safna fé fyrir þetta fyrirtæki. Þetta va afarmikið verk. Því þó viljinn sé góður er ekkert mögulegt án peninga Til allra þeirra sem hjálpuðu á þennan hátt, votta eg innilegt þakklæt fyrir hönd B.L.K.

Eins og skýrt var frá í fyrra, er búið að kaupa innanhalds mun P.e.a.s. að mestu leyti. Það verður að smá bæta við leirtau og ýmisleg fleira, en nú þegar þurfum við rúmteppi, kodda, bækur og allt það sem nota má við leikfimi fyrir unglingana. Við vonum að foreldrar og aðrir vekji áhuga unglinganna á þessari þörf sumarbúðanna, og að þeir sem vilja gefa áhöld eða önnur tæki, láti Sunrise Lutheran Camp njóta þeirra velvildar.

Menn voru fengnir til að riðja skóg og hreinsa landið og plægja leikvöllinn og slétta, svo í sumar verður góð braut í kringum minningarskálann. Það þarf margt enn að gera kringum byggingarnar, og umbætur verða gerðar árlega. Girðing var keypt í vor frá War Assets Corp. og verður það verk hafið eins fljótt og unt er.

Þetta fyrirtæki mun blessast og þroskast í framtíðinni ef fólk vort vill gera sér grein fyrir þeim mögulegleikum sem í því er fólgið. Tækifæri til fræðslu í kristindómi undir unaðslegum kringumstæðum, og tækifæri að kenna hinum ungu að starfa saman með bróðurhug og í einingu þann tíma sem hver hópur dvelur á þessu sumarheimili undir leiðsögn hæfra leiðtoga.

Bandalag lúterskra kvenna biður ykkur að koma og sjá staðinn, biður ykkur að kynnast starfinu þar. Biður ykkur að finna til þess að þetta fyrirtæki tilheyrir öllum sem bera hag okkar lútersku kirkju fyrir brjósti. Áhugi ykkar fyrir þessu fyrirtæki getur gefið starfinn byr undir vængi. Kuldi og áhugaleysi getur eyðilagt framtíð þess. Eg vil minna ykkur á nafnið: Sunrise—sólar upprás—hin hækkandi sól æskunnar. Guð gefi að þar megi takast að hrifa huga hinna ungu, svo að í hjörtun streymi kærleiki til Guðs og manna. Birta og ylur hinnar hækkandi sólar umvefji alla er þar dvelja og greiði leið að fögrum og björtum friðardegi framtíðarinnar. Bandalag lúterskra kvenna biður um bænir ykkar, biður um samúð og samvinnu í þessu starfi.

Vil eg enda þessa skýrslu með innilegu þakklæti til Mrs. Ingibjargar J. Ólafsson, forseta B.L.K því það er hennar framúrskarandi dugnað og leiðtoga hæfileika að þakka hvað lángt á leið þetta starf er komið. Það hefir verið hennar draumur og óskabarn sem margra annara meðlima B.L.K., er hafa sýnt áberandi áhuga svo að þetta fyrirtæki kæmist í framkvæmd. Við biðjum Guð að blessa hennar starf og allra sem hlynna að sumarbúðum Bandalagsins.

---

# Til Sunrise Camp.

**Í tilefni af vígslu minningarskálans, 22. júní, 1947.**

* * *

Á sigursins hávegum sitjið þið hér,
því samvinnuþrá ykkar máttug er
og þjóðfélagstrúin svo traust.
Þið framberið orð sem að auka ykkur mátt
því andinn er magnið í friði og sátt
og máttug sú raunveru raust.

Þið vinnið þau stórvirki vegleg og fríð
sem verða til minnis um ókomna tíð
er kynbræðra liggur þar leið.
Því saga oss ritar oss rúnina þá
sem röðulsins geislar í mannheimi strá
að athafna minninga meið.

En sólar frá austrinu geislanna glit
þar glitrar í íslenzkum þjóðernislit.
hvar kvennhöndin byggir sín ból.
Þar stendur nú höllin sem munarríkt mál
til minningar íslenzkri landnema sál
er íslenzka kvenliðið ól.

**Sigfús B. Benediktsson.**

# GUÐRÚN JÓNSDÓTTIR STEFÁNSON.

Frumherjarnir sem fyrstir brutu ísinn og kveiktu eldana í íslenzka landnámi hér vestra, eru flestir fallnir í valinn, og þeim fáu sem uppi standa fækkar nú óðum. En hér er kona frá landnámstíðum ennþá uppistandandi og með beinu baki, kona sem hefur á baki sér 65 vetur á Vestrænum slóðum, og kom gift að heiman rúmlega tvítug að aldri. Óþarft er að geta þess að hún er kona sem hefur haft líkams og sálarkrafta, kona sem hefur áunnið sér vinsemd og virðingu samferða fólksins, og allra sem hafa kynst henni. Hún hefur orðið langlíf og farsæl því hún hefur bygt líf sitt á bjargi heilbrygðrar lífshugsjónar. Hún hefur ætíð litið broshýrum augum gegn lífinu bæði í farsæld og þraut.



Guðrún Jónsdóttir Stefánson

Guðrún Jónsdóttir Stefánson er fædd að Þverá í Staðarbygð í Eyjafjarðarsýslu 20. júní 1860. Hún er fædd og uppalin undir geislaskíni Eyjafjarðar sólarinnar og við hjartarætur hins söguríka og fornfræga héraðs við norðurhvel heims. Sennilega hafa náttúru undur og fegurð æskustöðvanna sett mark sitt á líf hennar og lýst henni leið, því í sálu hennar mun hafa verið bjart alla æfi. Hún giftist í æsku Sigtryggi Stefánssyni frá Brekku í Kaupangssveit, og þau riðu vafurlogann með því að sigla vestur um haf 1882, og eins og allflestir vesturfarar komu þau hingað með tvær hendur tómar. Allt sem hún átti var nýfædd dóttir, og trú von og kærleikur.

Fyrsta veturinn voru þau í Dakota, vann hún í 6 mánuði á stóru íslenzku heimili, hafði hún dóttirina með sér, launin fékk hún aldrei aðeins fæði fyrir sig og barnið, þá foru þau til Winnipeg og voru þar til ársins 1885 að þau fluttu til Argyle. Fyrsta veturinn í Winnipeg fraus

maður hennar svo á fæti í vinnu hjá jarnbrautarfélagi að af honum var að taka 4 tærnar. Var hann frá verkum í 6 mánuði, þann tíma varð hún sjálf að berjast fyrir lífibrauði sínu og sinna heima hafði hún 2 kýr sem hún hirti sjálf, og þurfti að ganga langa leið kvölds og morgna, svo vann hún hálfa dagana hjá hérlendum konum við þvott, launin voru ekki há en konunum sem hún vann hjá ber hún vel söguna, bjargaðist hún þann ig fyrir eigin manndáð. Á fyrsta ári í Argyle kom hún stúlkunni litl fyrir og fór til Winnipeg og vann þar á gestgjafahúsi í nokkra mánuð við besta orðstýr, hafði hún $17.00 um mánuðinn. Ekki rauk sælan a lífinu í Argyle á fyrstu árum fremur en annarstaðar, og margt var erfitt Er annað barnið fæddist var hún alein, maður hennar varð að fara marg ar mílur fótgangandi eftir yfirsetukonu. Bjargaði hún sjálfri sér fyri eigin manndáð, allt var löngu um garðgengið þegar yfirsetukonan kom sonurinn eini sem hún á, fæddur. Er þetta að visu ekki einsdæmi ú frumherjasögunni, en að skapgjörð, mannslund og líkams þroska e kona þessi nær sérstæð meðal okkar fólks.

Mann sinn misti hún 2. febr. 1922. Var um hann skrifað að hann hafi verið "trúmaður mikill vinfastur, og vildi öðrum allt gott gera."

Guðrún á fjórar ágætar dætur sem allar eru giftar, og vel giftar, o einn son: Mrs. Gísli Björnsson, Glenboro; Mrs. Jónas Anderson er áðu fyr um langt skeið voru í Cypress River, en eru nú á ferð og flugi; Mrs Óli Stefánsson, Cypress River; og Mrs. Charles McGinn, Detroit, Mich Sonurinn heitir Kjartan og á heima í Morden, Man.

Guðrún er ennþá ern, og sem fugl á kvisti sveimandi og lífsglöð Hún er ekki ennþá nógu gömul til þess að taka sér eftir miðdags dún hún segir að það sé óþarfi.

Vér óskum henni farsældar um mörg ókomin ár.

**G. J. Oleson.**

---

# DEMANTSBRÚÐKAUP.

Þau merkishjónin Mr. og Mrs. C. P. Paulson, sem nú eru búsett á Gimli, áttu demantsbrúðkaup á sunnudaginn þann 16. mars, s.l. Fullu nafni heita þau Kristján Péturson Paulson og Þorbjörg Kernested Paulson; þau komu ung til þessa lands, og hafa um langt skeið verið búsett



Kristján Péturson Paulson



Þorbjörg Kernested Paulson

á Nýja-Íslandi; starfsferill þeirra á vettvangi mannfélagsmálanna hefir verið langur og giftudrúgur, og þá ekki sízt varðandi hina kirkjulegu starfsemi meðal Vestur-Íslendinga.

Í tilefni af demantsbrúðkaupinu, voru þessi mætuhjón heiðruð með virðulegum mannfagnaði á Gimli er lúterska safnaðarkvenfélagið beitti sér fyrir, þar sem þeim voru vottuð margs konar virðingarmerki fyrir nytsamt æfistarf, og þau sæmd verðmætum minjagjöfum.

Árdísi er það mikið ánægjuefni, að geta birt myndir af þessum heiðurshjónum, og flutt þeim hamingjuóskir.

# MINNINGAR.

* * *

## FRÚ ÞÓRUNN MELSTED.

**f. 18. okt. 1872 – d. 26. febr. 1947.**

Þessarar merku konu var á sínum tíma, að nokkru minnst í íslenzk vikublöðum í Winnipeg. En það er áreiðanlega vel við eigandi, að ár ritið Árdís minnist hennar líka þó ekki geti verið nema stuttlega í lit riti.

Frú Þórunn var fædd í Reykjavík á Íslandi 18. október 1872. Fað hennar var Ólafur söðlasmiður, sonur Ólafs Jónssonar óðalsbónda Sveinsstöðum í Húnaþingi, en móðir hennar var Kristín María Jóní Jónsdóttir Kristjánssonar prests á Breiðabólstað í Vesturhópi.

Þórunn var uppalin í Görðum á Álftanesi hjá séra Þórarni Böðvar syni og konu hans, Þórunni Jónsdóttur og var hún í náinni frændse við þau merku hjón bæði. Mun það heimili hafa verið talið eitt me merkustu heimilum landsins á þeim tíma. Það var því hvortveggja, a frú Þórunn var af góðu bergi brotin og fékk gott uppeldi, enda bar hú þess ljós merki alla æfi.

Til Canada fluttist hún 1893 og settist að hjá foreldrum sínum, se þá voru flutt til Winnipeg, og átti hún heima hér í borginni næstum al æfi síðan. Í júnímánuði 1898 giftist hún Sigurði W. Melsted, sem síða um langt skeið, var forstjóri fyrir stórri umfangsmikilli húsgagnaverzlu í Winnipeg. Foreldrar Sigurðar voru þau Vigfús Guðmundsson, prófastu á Melstað, en móðir Sigurðar var Oddný Ólafsdóttir frá Sveinsstöðum.

Sumarið 1903 bygðu þessi hjón sér heimili að 673 Bannatyne Ave hér í borginni og var það heimili þeirra jafnan síðan og er enn heimil ekkjumannsins og barna hans tveggja, sem heima eru hjá honum. Þótt heimili þeirra þegar fyrirmyndarheimili að hreinlæti, smekkvísi og all híbýlaprýði. Það var snemma annálað fyrir gestrisni, glaðværð, prúð menzku og góðvild. Frú Þórunn var fyrirmyndar húsmóðir og maðu hennar var henni áreiðanlega samtaka í því sem öðru, að gera heimil þeirra eins ánægjulegt og aðlaðandi sem best mátti vera. Þessi hjón létu sér afar ant um uppeldi barna sinna og nutu líka þeirrar miklu ánægju að sjá þau öll komast til menningar og þroska og verða góðir og nýti

orgarar í sínu föðurlandi. Foreldrarnir nutu líka ástúðar þeirra og irðingar í ríkum mæli.

Frú Melsted var ágæt eiginkona, móðir og húsmóðir og einnig félgskona, þar sem hún lét til sín taka, sem mun aðallega hafa verið innan 'yrsta lúterska safnaðar í Winnipeg.

Iún var einnig ágæt vinkona, sem ávalt nátti treysta og aldrei brást. Hún var nikilhæf og góð kona sem vann sér virðngu og traust allra sem kyntust henni.

Börn þeirra Melsted-hjóna eru sem hér segir: Ólavía Kristín—Mrs. Swain ndriðason, Oxbow, Sask.; Guðrún Odlný, heima; Sigurður Þórarinn, heima; Gordon (Garðar), Des Moines, Iowa; Vigfús Hermann, Wynyard, Sask.; Lárus Alexander, 1060 Sherburn St., Winnipeg; Anna Dorothea—Mrs. Clement Desormeaux, Regina, Sask.

Barnabörnin eru sjö. Ennfremur eru tvö systkini frú Melsted, Benedikt Ólafsson, Lloydminster, Alta. og systir á Íslandi, Sigríður, kona Sigurjóns Jónssonar læknis í Reykjavík.



Þórunn Melsted

Frú Þórunn Melsted andaðist 26. febrúar þ.á. og var jarðsett 1. mars frá Fyrstu lútersku kirkju og var hún jarðsett í Brookside grafreit, þar sem svo margir Vestur Íslendingar hvíla. Útfararathöfnin var öll mjög hátíðleg og prýðileg á allan hátt; prýðisfalleg ræða, sem sóknarprestur, sr. V. J. Eylands, flutti, mikill og fallegur söngur, mikið og fagurt blómskrúð og mikill mannfjöldi í kirkjunni og í grafreitnun, þrátt fyrir mikinn snjó og vetrarveður. Þess sáust glögg merki, að mannfjöldinn sem fylgdi þessari góðu konu til grafar, var þar með söknuð í hjarta og með einlægan og þakklátan vinarhug.

F. J.

## MARÍA KRISTÍN SIGURÐSON.



María Kristín Sigurðson

Var fædd á Fjalli í Kolbeinsdal í Skagafjarðarsýslu 8. mars 1861. Hún var landnámskona í Geysirbygð í Nýja-Íslandi, tilheyrði Geysir söfnuði, og var meðlimur kvenfélagsins Freyja.

Þessi látna landnámskona og félagssystir var trúföst og trygglind, og skilur eftir hlýjar og fagrar endurminningar í hjörtum allra sem kyntust henni.

Hún lést 23. desember 1946 á heimili dóttir sinnar Mrs. J. Thorsteinson í Geysir, tæpum tveim mánuðum eftir fráfall eiginmanns hennar Jóns Sigurðssonar frá Reykhólstöðum. Dagurinn var orðinn langur og hvíldin kær komin. Blessuð sé minning hennar.

H. J.

---

## FRÚ ÓLÍNA THEODORA ERLENDSSON.

Frú Ólína Theodora Erlendson andaðist þann 2. apríl 1947 á Elli heimilinu Betel. Hún var fædd á Ellíðá í Staðarsveit þann 4. apríl 185 Foreldrar hennar voru hin vel metnu hjón Guðmundur Stefánsso hreppstjóri og kona hans Anna Sigurðardóttir.

Árið 1881 giftist Ólína, Erlendi Erlendsyni frá Geirmundarbæ Akranesi. Fluttust þau til þessa lands 1889 og eftir ársdvöl í Winnipe lögðu þau leið sína til Nýja-Íslands, reistu bú í Geysir byggð og nefnd heimili sitt Háland. Þar bjuggu þau á meðan kraftar þeirra leifðu. Man sinn misti Ólína árið 1931.

Erlendur og Ólína eignuðust sjö börn. Fjögur þeirra og einn upp

eldissonur lifa og syrgja ástkæra móðir, en þrjú börn höfðu þau mist, stúlku á unga aldri og tvo uppkomna syni.

Frú Ólína var sterk trúuð og einlæg kona og vann með brennandi áhuga að kirkju og kristindómsmálum. Hún var dyggur meðlimur Geyssissafnaðar og starfaði bæði að sunnudagaskóla og líknarstarfi safnaðarins. Starfi Ólínu í mannúðarmálum byggðarlags síns er ekki auðvelt að lýsa í fáum orðum. Hún var ætíð reiðubúin að fórna kröftum og tíma að hjúkra sjúkum og hughreysta þá sem vonleysi og erfiðleikar voru að yfirbuga. Hennar kærleiksríka umönnun í garð einstæðinga og munaðarlausra er þeim ógleymanlegt sem til þektu.



**Ólína Theodóra Erlendson**

Þrátt fyrir heimilis annir og líknarstarf í byggð sinni stóð Ólína heitin ætíð framarlega í öllum félagskap. Hún var sérstaklega félagslynd og samvinnu góð kona og studdi af alhug öll velferðarmál byggðarinnar. Einnig var hún ein af stofnendum kvennfélagsins Freyja í Geysisbyggð, og meðlimur þess til æfiloka. Hún var forseti kvennfélagsins í tuttugu ár og heiðursforesti þess síðan 1942. Tryggð hélt Ólína við þennan félagsskap fram að hinstu stund. Ekkert var henni kærara síðustu árin en að minnast gömlu tímana meðan starfið var erfiðast og mest varð að leggja á sig til að malefnin kæmust í framkvæmd. Viljum við félagssystur hennar þakka vel unnið starf og segjum með sálmaskáldinu.

"Far þú í friði
friður Guðs þig blessi
hafðu þökk fyrir alt og alt.
Gekst þú með Guði
Guð þér nú fylgi
hans dýrðar-hnoss þú hljóta skalt."

K. L. S.

## ELISABET GUNNLAUGSDÓTTIR JÓNASSON.

**f. 21. sept. 1871 – d. 12. mars 1947.**

Hún var fædd að Hlíð í Alftafirði í Ísafjarðarsýslu, dóttir hjónanna sem þar bjuggu þá, Gunnlaugs Gunnlaugssonar og Jónínu Jóhannesdóttur. Elisabet var tvíburi, en hún var ekki langdvölun í Hlíð, því maðurinn sem tók á móti tvíburunum bar hana við brjóst sér, innanklæða heim til sín sömu nóttina sem hún fæddist og það í vondu veðri. Þessi maður hét Jón Jónsson og mun hafa verið einn af þessum nærfærnu mönnum, sem á þeirri tíð fékst töluvert við lækningar. Kona hans hét Margrét Jónsdóttir og bjuggu þau í Tröð. Kallaði hún þau alla æfi pabba og mömmu, og þótti engu síður vænt um þau heldur en börnum þykir um eigin foreldra. Um tvítugs aldur fór hún til frú Theódóru Thoroddsen á Ísafirði og var vinnukona hjá henni um skeið, en stundaði eftir það nám í tvö ár við kvennaskólann á Ytri Ey. en fór þaðan fram í Vatnsdal og var þar um skeið. Þar kyntist hún Einari Jónassyni, sem þá var á Undirfelli og fór með honum til Canada 1899 og giftust þau í Winnipeg 23. júní 1900, og þar bjuggu þau í fimm ár. Árið 1905 fóru þau aftur til Íslands og þar eignuðust þau tvö börn, Margeir Osvald og Valdheiði Láru, Mrs. Ágúst Sigurdson, sem bæði eru hér í landi, ásamt ekkjumanninum, Einari Jónasson. Þau Elisabet og Einar komu aftur til Canada 1910 og var heimili þeirra ýmist í Winnipeg eða Árnesi, en síðustu 12 árin á Gimli.



Elisabet Gunnlaugsdóttir Jónasson

Elisabet átti tólf systkini, sem nú eru öll dáin nema ein systir, Friðný Stephensen, búsett í Reykjavík á Íslandi.

Hún var jafnan meðlimur lútersku safnaðanna í Arnes og síðar Gimli og var hún jafnan trú og einlæg trúkona og vann söfnuði sínum

allt það gagn er hún mátti og þá var hún ekki síður góður meðlimur kvenfélagsins Stjarnan, sem hún tilheyrði lengi og vann mikið gagn.

Elisabet var ein af þessum góðu konum, sem ekkert mátti aumt sjá án þess að gera allt sem í hennar valdi stóð, til að hjálpa og líkna. Mun fáir kunna að meta að fullu og skilja það hugarfar aðrir en frumbyggja konurnar. Börn og gamalmenni hafði hún oft hjá sér svo árum skifti og var þeim með afbrygðum góð og umhyggjusöm. Sem eiginkona og móðir reyndist hún framúrskarandi vel. Margir Ný-Íslendingar og Winnipegbúar kannast vel við litla húsið á Centre Street á Gimli þar sem hún dvaldi síðustu æfiárin. Þar var gott að koma og þar mættu þeir mikilli gestrisni og góðvild og munu fáir sem þar komu gleyma hinni góðu konu sem þar bjó.

Hún var lengi heilsuveil og síðustu 10 mánuðina lá hún rúmföst bæði í Winnipeg General Hospital og Johnson's Memorial Hospital, Gimli, þar sem hún andaðist 12. mars 1947. Hún bar sjúkleik sinn sem hetja og var hennar bjargfasta og einlæga trú, henni óumræðilegur styrkur, þá sem endranær í lífinu.

Elisabet sáluga var jarðsett að Gimli af sóknarprestinum, séra S. Sigurgeirson 17. mars og flutti séra S. Ólafsson þar einnig kveðjuorð. Fjöldi fólks fylgdi henni til grafar.

Guð blessi okkur öllum dýrmætar endurminningar um þessa góðu konu.

Fyrir hönd kvenfélagsins "Stjarnan", Arnes, Man.

V. L. S.

---

## ELINBORG HANSON.

Elinborg Hanson dó 6. júní 1946, 93 ára gömul. Hún var meðlimur Fyrsta lút. safnaðar og kvenfélagsins í fjölda mörg ár. Einnig var hún meðlimur Jón Sigurðsson Chapter I.O.D.E. í meir en fjórðung aldar. Hún var frábærlega félagslynd kona, vinföst og gaf dygga þjónustu þar sem hennar starfsvíð lá. Þegar eg kyntist henni fyrst á stríðsárunum fyrri, varð eg var við gæzku hennar og hlýhug gagnvart íslenzkum stúlk-

um, og stóð heimili hennar ætíð opið fyrir öllum sem þangað vildu koma. Hún starfaði alltaf það sem kraftar hennar leyfðu, prjónaði fyrir Red Cross, og með sínu blíða, látlausa viðmóti, breyddi sólskin út frá sér. Er syrgð af einum syni, Skúla, er var kapteinn í hinu fyrra stríði. Blessuð sé minning hennar.

M. S.



Elinborg Hanson

---



Anna Sigurbjörg Ólafson

## ANNA SIGURBJÖRG ÓLAFSON

Fædd 2. nóvember 1893 að Garðar, N. Dakota. Dó á Morden sjúkrahúsinu 28. desember 1946. Hún lætur eftir sig eiginmann, Sigurð Ólafsson og átta mannvænleg börn. Foreldrar hennar voru Guðrún og Helgi Johnson. Var hún elzt af þremur systrum. Yngsta systir Önnu sál., Helen (Mrs. Davið Jóhannson) andaðist í Vancouver fyrir nokkrum árum, en þriðja systirin, Albertína (Mrs. Karl Halldorson) er enn á lífi og býr í Elfros, Sask.

Anna Ólafson var félagslynd kona, frábærlega dugleg bæði í kvenfélaginu þar sem hún skipaði forsæti um hríð, og Rauða Kross deildinni,

og starfið einnig í sunnudagaskólanum. Guð blessi minningu þessarar ænu konu. P. S.

---

## SESSELJA GUÐMUNDSSON.

**f. 4. desember 1886 – d. 25. maí 1947.**

Sesselja Guðmundson var elst af tíu börnum merkishjónanna Tryggva og Hólmfríðar Ingjaldson. Hún var fædd 4. desember 1886 í Pembina County, N. Dak. Hún fluttist með foreldrum sínum til Nýja-Íslands étt eftir aldamótin, hún dvaldi í foreldrahúsum þar til hún giftist Guðmundi S. Guðmundsyni 4. nóvember 1905. Reistu þau heimili í Framnes byggð og bjuggu þar í nánd við Ingjaldsons heimilið. Sesselja misti mann sinn 23. apríl 1941. Börn þeirra eru Tryggvi, kvæntur Gen Craigen; Hólmfríður gift Fred Isfeld; Stefán Pétur; Guðrún Jóhanna gift Sigurjóni Hornfjord; Andrés Edward kvæntur Esther Eirikson og Kristjana Rannveig er vinnur í Winnipeg.



Sesselja Guðmundsson

Sesselja sál, var hin mesta gæða kona, myndarskapur og rausn einkendu allt hennar starf, bæði á heimilinu og utan þess. Meðan hún dvaldi í foreldra húsum tók hún mikinn þátt í hinu margþætta starfi foreldra sinna á heimilinu og utan þess. Einhverntíma fórust móður hennar þannig orð að hún hefði snemma orðið öllum yngri systkinum sem önnur móðir. Föður sínum var hún einnig sem önnur hönd í hans umfangsmikla starfi utan heimilis.

Það kom því engum á óvart þó hennar eigin heimili yrði aðlaðandi. Hjónin voru samtaka í gestrisni og góðvild til allra sem að garðibáru og allra sem þau náðu til þangað reyndist þeim gott að koma sem einir stóðu á bersvæði lífsins, kunnugir minnast ýmsra sem þar hlutu aðhjúkrun og umönnun lengri eða skemmri tíma. Sesselja sál, var sérstak-

lega upplögð fyrir að hjúkra veikum, mun ávalt hafa verið leitað hennar í byggðinni þegar veikindi voru á heimilum, og æfinlega hún tilbúin að létta undir sjúkdómsbyrðina að svo miklu leyti sem gat. Fyrir nokkru var minnst gjafar ungrar stúlku í Arborg "Í minningum um ljósu mína Sesselja Guðmundson". Sá hópur er fjölmennur sem var ljósmóður—hvar sem veikindi voru á ferð þar mátti maður eiga að hitta Sesselju Guðmundson.

Hún unni kirkju sinni af óskiftum huga, lagði mikið á sig við sunnudagaskólastarf í fjölda mörg ár í Framnesbyggð. Hún var meðlimur kvenfélags Árdalssafnaðar, starfaði þar af frábærum dugnaði og trúmensku meðan kraftar entust. Var þetta starf hennar í kirkju, sunnudagaskóla og kvenfélagi svo dýrmætt vegna þess innra fyrir var einlæg, barnsleg og sönn trú á hann sem hún þráði að þjóna, í hvers fótspor hún þráði að feta.

Börn hennar eru auðug í endurminningum um ástriki og umhyggjusemi hennar. Hún var þeim hin besta móðir. Hin farsælu og djúpu áhrif hennar verða þeim til margfaldrar blessunar til daganna enda.

Heiður og hlýr sumarblær leikur um minningarnar sem samferðafólk og vinir og systur hennar geyma um þessa góðu konu—okkur fanst hún ennþá ung þegar kallið kom að hverfa héðan—"meira að starfa Guðs í geim".

Ingibjörg J. Ólafsson.

---

## FRÚ GRÓA SIMUNDSON.

### f. 4. ágúst 1890 – d. 19. mars 1947

Þinn var háskóli
það sem helgast vissir.
Hlýðni við guð
og gott að stunda

Komast konur
komast drotningar
hærra en hún
í hennar kjörum?

Frú Gróa var fædd 4. ágúst 1890 í Victoria, B.C. Fjögra ára aldri fluttist hún til Point Roberts með foreldrum sínum Helga og Dagbjörtu Þorsteinsson. Hún giftist 22. desember 1913 eftirlifandi manni sínum séra Kolbeini Simundssyni. Heimili þeirra var í Point Roberts þar til árið 1924 að þau fluttu til Seattle ásamt fjórum ungum börnum þeirra

ar hóf eigin maður hennar, þá nám við prestaskólann (Pacific Theologi-al Seminary) með óskiftum huga, örugg og glöð hélt hún út á hinu ýju braut er leiddi hana og eiginmann hennar til víðtækara starfs í íngarði Drottins.

Eftir þriggja ára skeið við prestaskólann, flutti hún ásamt manni og örnum til Ballard, hafði séra Kolbeinn þá verið kallaður til að þjóna alvary Lutheran Church þar.

Árið 1928 fluttu þau til White Centre, Seattle, þar sem séra Kol-einn hóf starf við St. James Lutheran Church. Þar lagði hún fram ikla þjónustu sem prestkona, starfaði með áhuga, festu og óbifandi rúnaðar trausti þar til herra lífsins kallaði hana á æðra starfssvið til ýrrar þjónustu 19. mars 1947. Ásamt manni hennar syrgja hana sex annvænleg börn, eitt barna-barn, tvær systur og tveir bræður.

Þetta er umgjörðin af æfisögu þessarar merku konu. Hin innri saga instaklingsins er skráð aðeins í hjörtu ástvinanna. Eg veit að mér er hætt að fullyrða að áhrif hennar á alla sem hún kynntist voru mikil og lessunarrík. Mér verða ógleymanlegir dagar sem við hjónin dvöldum heimili hennar og manns hennar í Seattle fyrir fjórum árum. Sérstak-ega minnist eg eins dags sem við eyddum í næði niður við sjóinn og öluðum um ýms áhugamál. Hinn brennandi áhugi hennar fyrir því að yggja upp starfið í söfnuði þeim sem maður hennar þjónaði, draumar ennar um að endurbæta og stækka kirkjuna, lægni og listfengi hennar ið að æfa unglingana, fórnfýsi hennar og skyldurækni var að mínum ómi einstætt meðal prestkona vestanhafs. Það var yndislegt að hafa nátt kynnast henni, yndislegt fyrir ástvini hennar að eiga þann sjóð em þeir eiga í endurminningum um hana.

Þegar eg hugsa um Gróu Simundson kýs eg að láta hugan dvelja ið sólsetur við sjóinn þar sem við sátum saman á ströndinni. Hún var érstakur snillingur við að æfa táknleiki úr biblíunni (Biblical pageants). Var hún að sega mér frá því og við höfðum báðar gleymt tímanum, en ánkuðum við okkur þegar að sólin var að hniga fyrir hafs röndina— afsflöturinn var sléttur, vestrið var uppljómað í dyrðlegum kvöldroða, undursamlegur friður ríkti.

Hinn friðsæli og fagri æfidagur hennar er liðinn—sólin hnígin í vestri. Nýr dagur með fegurri sólar upprás ljómar nú í austri. Í anda sé eg nú vinkonu mína á eilífðar ströndu umvafða í þeim árdags ljóma.

**Ingibjörg J. Ólafsson.**

## KRISTÍN JÓNSDÓTTIR CHRISTOPHERSON.

### 1880 – 1946.

Það var veturinn 1899-1900 að eg var staddur á Skjaldbreið í Vesturhluta Argyle byggðar. Þangað kominn til að horfa á leikinn "Æfintýri á Gönguför." Eg sat einn mins líðs í bekk þar, og drógst athygli mitt að 2 ungum persónum er sátu fyrir framan mig, og syndust fram úr máta lukkulegar. Eg horfði á leikinn með aðdáun því fólkið lék prýðilega vel þennan fallega leik en jafnframt hafði eg augun á þessum ungu persónum sem sýndust svo hamingjusöm og mér leist svo vel á. Eg hefi gleymt leiknum að mestu en mynd þessara ungu hjóna hefur staðið mér skýrt fyrir hugskotssjónum til þessa dags. Var mér sagt að þetta væri William C. Christopherson á Grund (sonur Sigurðar Christopherson frumherjans nafnkunna og hans ágætu hérlendu konu Caroline Taylor) og kona hans Kristín Jónsdóttir þá nýgift. Þau giftust 29. maí 1899. Hann dó 28. sept. 1941 en hún dó á síðastliðnu hausti þann 24. nóv. og vil eg minnast hennar með fáum orð fyrir Árdísi. Kristín var fædd í Rauðuskriðu í S. Þingeyjarsýslu 18. apríl 1880. Foreldrar hennar voru Jón Kristjánsson og Hólmfríður Ólafsdóttir. Faðir hennar mun hafa dáið á Íslandi, en vestur kom hún með móður sinni 1893 og þá strax til Argylebyggðar. Þegar hún giftist settust þau að á höfuðbólinu Grund og þar áttu þau heimili til dauðadags.



Kristín Jónsdóttir Christopherson

Kristín var háttprúð og yfirlætislaus og af öllum vel metin. Hún var meðlimur Frelsissafnaðar og Kvenfélagsins og oftar en einu sinni forseti þess. Hún kendi í sunnudagaskólanum og var trygg við það starf, og hún vann með trú og dyggð að velferðarmálum í sinu umhverfi. Gestrisin var hún og góð heim að sækja, eg þekti hana og þau hjón vel um langa tíð. Eg kom aldrei svo að Grund að ekki stæði mér skýrt fyrir sjónun er eg sá þau í fyrsta sinni á Skjaldbreið. Þau breittust ekki þó árin liðu, þau virtust ætíð jafn glaðvær og hamingjusöm, eg held þau hafi lifað lífi

sinu eins og það á að vera,—óslitnu tilhugalífi æfina á enda. Móðir sína annaðist hún með prýði til elliára.

Hún eftirskilur einn son John að nafni sem býr eftir föður sinn á Grund einnig tvö barnabörn Donna og Bobby. Ólafur bróðir hennar býr að Hnausa, Man. Útförin var mjög virðuleg, frá heimilinu og kirkju Frelsissafnaðar. Séra E. H. Fafnis jarðsöng.

"Ó blessuð stund er hátt í himinsölum,
minn hjartans vin eg aftur fæ að sjá,
og við um okkar æfi samantölum,
sem eins og skuggi þá er liðinn hjá."

G. J. Oleson.

---

## KRISTJANA GUÐFINNA JÓHANNSON.

### 1860 – 1946.

Hún andaðist að heimili sínum í Glenboro 3. september 1946. Hún var ein af landnámskonum Argylebygðar. Fædd í Kelduhverfi 6. apríl 1860. Foreldrar: Kristján Sigurðson og Kristín Kristjánsdóttir Jónssonar. Á Íslandi giftist hún Jakob Helgason, og komu þau til Vesturheims og Argylebygðar 1884. Jakob dó um 1890. Nokkrum árum síðar giftist Kristjana Theodor Jóhannson, ættuðum úr Reykjadal. Var hann ágætur maður og heimili þeirra í Argyle og síðar í Glenboro var fyrirmyndar heimili.

Kristjana var gagnmerk kona, og þrekmikil bæði til sálar og líkama. Síðfáguð í framkomu og hugsun. Hún var trúrækin og studdi öll góð mál. Börn af fyrra hjónabandi eru Mrs. Jakobina Sveinbjörnson, Kandahar, Sask.; Helgi og Kristján bændur í Peace River dalnum í Alberta. Kristín Anderson, Glenboro dó 14. desember 1945, (Er hennar sérstaklega minnst í þessu hefti Árdísar). Af síðara hjónabandi: Mrs. Albert A. Sveinson og Mrs. H. A. Thorsteinson, báðar í Winnipeg. (Sjá æfiminningu Kristjönu í Lögbergi 24. okt. 1946.)

G. J. Oleson.

## KRISTÍN ANDERSON.

### 1883 – 1945.

"Vinir berast burt á tímans straumi
og blómin fölna á einni hélunótt."

Þessi merkiskona dó snögglega og á besta aldri 14. desember 1945 að heimili sínu í Glenboro, Man.

Hún var fædd á Hallgilsstöðum í Fnjóskadal 1. ágúst 1883. Foreldrar hennar voru Jakob Helgason og Kristjana Kristjánsdóttir. Kom hún til Vesturheims með foreldrum sínum ársgömul 1884. Settist fjölskyldan að í Argylebygðinni, 4 mílur fyrir S. Vestan Glenboro. Faðir hennar dó nokkrum árum eftir hann kom hér, en móðirin með börnin hélt áfram búskapnum og nokkrum árum síðar giftist hún aftur Theodór Jóhannson ættuðum úr Reykjadalnum, ágætum manni. Kristín ólst þarna upp til fullorðins ára, eða þar til hún giftist Snæbirni A. Anderson 1907 og settust þau að í Glenboro, og þar bjó hún til dauðadags. Kristín var kona fríð sínum, aðsópsmikil og tiguleg, og í alla staði hin ágætasta kona. Hún var trúkona heilsteypt og einlæg, og drjúg til starfs í kirkumálum og félagsmálum í sinu umhverfi sérstaklega Ís. félagsmálum, en einnig með hérlendu fólki. Forseti Íslenzka kvennfélagsins í Glenboro var hún í 10 ár og lét hún ætíð mikið til sín taka á heilbrygðan og andríkann hátt. Sem Íslendingur og borgari í sinu fósturlandi, sem dóttir, eiginkona og móðir, og húsfreyja á sinu heimili var hún ætíð trú sinni köllun. Líf hennar þroskaðist alla æfina við arineld kristinna hugsjóna. Hún rétti mörgum hjálparhönd. Kærleiksþjónusta var sterkur þáttur í lífi hennar. Hún átti bjargfasta sannfæringu og hana seldi hún ekki lágu verði. Hún eftirskilur eiginmann og tvö uppkomin börn Mrs. Axel Oddleifson, Seven Sisters Falls, Man. og Friðrik í Glenboro, er móðir hans dó var hann í herþjónustu á Þýskalandi. Systkini hennar eru Mrs. S. J. Sveinbjornson, Kandahar, Sask.; Mrs. Anna Sveinson og Mrs. Guðrún Thorsteinsson, Winnipeg og Helgi og Kristján (Helgason) bændur í Peace River héraðinu í Alberta. Móðir hennar dó 3. sept. 1946. Jarðarförin var ein hin verðulegasta og fjölmennast hér um slóðir. Kistan var þakin blómskrúði og vinir og ættingjar gáfu í Blómssjóð kvenfélagsins $119.00 til að heiðra minningu hennar, og tók það langt fram því sem hér hefur áður þekkst. Séra Rúnólfur Marteinsson jarðsöng.

"Far vel, far vel! Vort lán er lauf í vindi
og lífsins trú vor eina raunabót,
Far heil og sæl! Því elska dygð og yndi
á eilíft líf, þó skifta sýnist rót."

G. J. Oleson.

---

## MARÍA ÍSLEIFSON.

### 1900 – 1946.

Hún andaðist í Glenboro 24. ágúst 1946 eftir langa og þungbæra vanheilsu. Hún var fædd í Swan Lake, Man. árið 1900 og var af hérlendum ættum. Hún giftist 1924 Jóni S. Ísleifssyni frá Víðidal í Húnavatnssýslu og var þeirra heimili ætíð í Glenboro. Hún starfaði með Íslendingum og var þeim handgengin, en ekki lærði hún að mæla á Ísl. tungu. María var léttlynd og vingjarnleg í viðmóti, og hinn þunga kross er hún bar síðasta áfangann bar hún með þolgæði, og tók því sem verða vildi með stillingu. Hún eftirskilur eiginmann, eina dóttir og 3 sonu: Bertha Jemima; Bjorn James; William Ísleif og Robert. Voru elstu drengirnir tveir í herþjónustu allengi í heimsstyrjöldinni miklu.

G. J. Oleson.

---

## Kvenfélag Fyrsta Lúterska Safnaðar Winnipeg

Fundir klukkan 2.30 annan hvern fimtudag.

Forseti..............Mrs. B. B. Jónsson
Skrifari..........Mrs. Albert Wathne
Féhirðir........Mrs. M. W. Dalman

## Junior Ladie's Aid

OF THE

FIRST LUTHERAN CHURCH

Meet second and fourth Tuesday of each month
WINNIPEG, MAN.

## Kvenfélagið "Undina"

HECLA, MAN.



Fundir einu sinni í mánuði.

Forseti................Sigþóra Tómasson
Skrifari..........................Anna Jones
Féhirðir...........................Rósa Doll

## Kvenfélag Fríkirkju Safnaðar

BRÚ

Fundir fyrsta fimtudag í hverjum mánuði.

*Blómsveigasjóður til líknarstarfs.*

Forseti..............Mrs. Dóri Johnson
Skrifari......Mrs. Conrad Nordman
Forseti ........ Mrs. S. Hallgrimson

## Kvenfélagið Fjólan

MORDEN, MAN.

Embœttiskonur:

Forseti..........Mrs. Ranveig Olafson
Skrifari.................Lovísa Gíslason
Féhirðir........................Ólafia Gillis

## Kvenfélag Selkirksafnaðar

Selkirk, Man.

Forseti .... Mrs. S. I. Sæmundson
Skrifari....Mrs. E. W. Childerhose
Féhirðir......Mrs. Anna Magnusson

Orður teknar fyrir ullarteppi.

## Kvenfélag Glenboro safn.

GLENBORO, MAN.

Fundir fyrsta fimtudag í hverjum mánuði. — Blómsveigasjóður til líknarstarfs.

Forseti ................ Liney Sveinson
Skrifari ............ Karólína Herman
Féhirðir......Mrs. Lára Jósephsson

## Kvenfélagið Ísafold

Víðir, Manitoba

Fundir fyrsta þriðjudag í hverjum mánuði

Forseti ................ Anna Austman
Skrifari ........ Kristiana Sigurðson
Féhirði ................ Ina Sigvaldason

**Kvenfélag Frelsissafnaðar**
**að GRUND í ARGYLE**

Fundur haldinn fyrsta fimtudag
í hverjum mánuði

Forseti .......... Mrs. Emily Sigmar
Skrifari ........... Vilborg Goodman
Féh.......Mrs. Lára Christopherson

**Kvenfélag "Björk"**
LUNDAR MANITOBA

Fundir fyrsta föstudag í
hverjum mánuði.
Blómsveigasjóður Thorður
Backman til líknarstarfs.

Forseti...............Mrs. Anna Byron
Skrifari........Mrs. Ingibjörg Garton
Féhirðir ............... Thora Loptson

**Kvenfélag Herðubreiðar safnaðar Langruth**

Fundir fyrsta laugardag
í hverjum mánuði.

Forseti...............Mrs. B. Bjarnason
Skrifari .......... Mrs. G. Thorleifson
Féhirðir ............. Mrs. O. Oddson

**Kvenfélagið Stjarnan**
**Árnes, Man.**

Fundir fyrsta miðvikudag
í hverjum mánuði

Forseti..........Mrs. Mundi Helgason
Varaforseti....Mrs. Jón Thorkelson
Skrifari..........Mrs. Leifi Helgason
Varaskrifari....Mrs. Oscar Eirikson
Féhirðir.................Mrs. J. O'Hare

**Kvenfélag Baldursbrá**
**Immanuel safn.**

BALDUR, Man.

Fundir fyrsta miðvikudag í
hverjum mánuði.
Minningarstjóður Kristjáns
Jónssonar til líknarstarfs.

**Safnaðar Kvenfélagið "Líkn"**
BLAINE, WASH.

Starfsfundir fyrsta föstudag
Vinnufundir þriðja miðvikudag
í hverjum mánuði.

Forseti........Mrs. Bella Straumfjörð
Skrifari............Mrs. Ólína Johnson
Féhirðir.................Mrs. Ella Wells

**Lutheran Ladies Aid**
ÁRBORG, Man.

Fundir fyrsta fimtudag í hverj-
um mánuði

Forseti.........Mrs. G. A. Erlendson
Skrifari............... Mrs. L. Björnson
Féhirðir ........ Mrs. T. B. Johnson

**Kvenfélagið "Framsókn"**
**Gimli safnaðar**

Fundur fyrsta fimtudag í
hverjum mánuði
Blómsveigasjóður til
líknarstarfs
Heiðursforseti:
Mrs. H. P. Tergesen

Forseti......Mrs. Ingibjörg Bjarnason
Skrifari...............Mrs. H. Stevens
Féhirðir ............ Mrs. J. Jakobson

Öllum þeim sem auglýsa í þessu riti, vottar útgáfunefndin virðingu og þakklæti.



Öllum þeim sem auglýsa
í þessu riti, vottar útgáfu-
nefndin virðingu og þakklæti.



Öllum þeim sem auglýsa í þessu riti, vottar útgáfunefndin virðingu og þakklæti.



Printed by Thorgeirson Company, 532 Agnes St., Winnipeg.